# Tilskipan
## Umm
# Huus-Agann
## A
# Islande.

HIRSCHHOLMS-Slote þañ 3. Junii Anno 1746.

Prickt a Hoolum i Hialltadal Anno 1749.

# Vier Christian sa Siøtte/ af Guds Nåd / Kongur til Danmerkur og Noregs/ Vinda og Gauta / Hertuge i Slesvijk/ Holstein/ Stormarn og Dytmersken / Greife uti Oldenborg og Delmenhorst/ etc.

Giørum øllum Vitanlegt: Ad so sem Vier Allra-Nædugast høfum teked til Yfervegunar, hvørsu ein lifande GUDs Pecking og Ydkun sañarlegs Guds Otta, so vel sem Æskelegur Fridur og Eindrægne fyrer goodañ Hws-Aga og Skickun i mille Forelldra og Barna, somuleides Hwsbænda og Pioonustu-Foolks, kuña miøg so ad framhalldast; Pa høfum vier i þvi Tillite, og ad regulera og stadfesta soddañ gooda Disciplinam Domesticam edur Hws-Aga a Voru Lande Islande, Allra-Nædugast funded fyrer Gott, ad tilskicka og befala soleides Sem fylger:

1. Par ad Børneñ erú ein GUDs Gæfa, þa eiga þaug ad helgast hønum i Modur-Lijfe; Og ber Christelegum Forelldrum þess vegna Daglega, þañ Tijma Mooðureñ er Ovlett, iñelega ad ækalla GUD i þeirra Bænum, ad hañ vilie vardveita og blessa þeirra Lijfs-Avøxt, og ad hañ þa hañ fær ad siæ Dagsens-Lioos, mætte hønum fyrer Skijrnar Sacramented iñlijfadur verda, og sijdañ Stadfastur blijfa i þeim Nædareñar Sættmæla allt til siñar sijdustu Endalycktar, sem eitt GUDs Barn og Erfinge til þess eilijfa Lijffens fyrer Christum.

2. Forelldrarner skulu, so fliott sem GUD hefur blessad þau med Einu Barne, bera strax Umsorgun fyrer þvi, ad þad hid seinasta Jñañ Attunda Dags, verde fært til Kyrkiu og Skijrnar; Eñ skule Barned vera so veykt og Vegerner so Osærer, edur Vedurættañ so hørd, ad þeir þore ecke, an Lijfs-Hæska, ad læta flytia þad til Kyrkiuñar, byriar þeim strax ad læta sækia Presteñ ad skijra þad heima i Hwsenu, hvar til Prestureñ, nær Þorf gioreft, take sialfur Skijrnar-Fat med sier. Misbrwke nockur þesse Frijheit med Heima-Skijrn, añars eñ i ædurtiedre Naudsyn, skal hañ þar fyrer æltijtast med tilbærelegu Straffe. Pa Barn er i Kyrkiu skijrt, byriar Forelldrunum ad biooda 3. Gudfedginum, þa er þau kuña ad fæst, Nefnelega, Tveimur Kallmoñum og Einum Kveñmañe, hvøriar Persónur ad skulu vera Gudhræddar og Erlegar, sem Madur kuñe ad vænta þess af, ad þær læte sier Barnsens Uppfoostur og Undervijsun i GUDs Peckingu, og þvi sem Gott er, vera iñelega umhugad, ef Forelldrarner fyrer Daudañ kyñu ad falla fra, edur vera i þvi Stande, ad þeir ecke giete tilbærelega ad sier teked þeirra Barna hid saña Besta, hvar til Prestarner eiga Kostgiæfelega ad ææmiña þa. So skal og hier epter af sierhvørium Preste tilbwast og halldast Ein Skijrnar-Book, hvar i Forelldraña, Barnsens, og Gudfedginaña Nøfn

sn med Deige og Are, nær þad hefur skijrt vered, iñfærast; Og skal su Book alltijd til Epter-Rettingar vera vid Kyrkiuna; og vardveitast aa medal añara heñar Brefa.

3. Forelldrarner skulu ecke alleinasta sialfer med stödugre og alvarlegre Bæn befala Gude sijn Börn, helldur og þar hiaa, so sliott Börneñ faa skyniad, tala fyrer þeim hid Einfalldlegasta um̃ GUD og þeirra Endurlausnara, og þad hid Gooda sem fyrer hañ er wtvegad, og þa þau taka til ad tala, ad kieña þeim FADER VOR og adrar Gudrækelegar Bæner, Sömuleides ad venia þau vid, ad uppbyria og enda Dageñ med Bæn og Andvarpan til GUDs Forsoomunarlaust. Þeir skulu ecke leifa þeim ad uppbyria og enda Maaltijd, aan Akalls og Þackargiördar. Fremur hafa þeir Daglega ad miña þau aa þeirra Skijrnar Saattmaala og þañ Ypparlega Velgiörning sem þau hafa þar i ödlast, so vel sem þa dijrmætu Lofun, sem þau hafa giört þeirra Gude og Endurlausnara, þañ Tijma er þau voru skijrd, og aa þa Skylldu sem þau þar epter eru honum um̃ skylldug. Til hvörs Endurmiñingar þeim epter Prestsens Raade og Vegvijsan, kyñu þar hiaa ad fram̃færast stuttar og Lijfkröptugar Greiner og Andvarpaner af Bibliuñe og goodum Psalmum, þaangad til þeim þar aa epter, med vaxande Alldre aa 5ta, 6ta 8da Are, naakvæmar verdur tilhallded sier hvörn Dag ad læra nockud af þeim litla Catechismo og sijdañ af þeirre Allra-Naadugast uppaa lagdre Catechismi Utskijring epter þeim Maata og Fyrerskrift sem i Vorre Allra-Naadugustu Forordning um̃ Catechisation af 29. Maij 1744. Tilskipadur er: Og byriar ad þad sem þau so hafa lært, sierdeiles eirn Partur af þeim litla Catechismo, jafnañ Kvölld og Morgna, hellst aa Veturnar sie med Börnunum upp aptur hafdur. Ad þessu verde soleides epterfylgt, hafa Kieñendurner og þeirra Medhiaalparar Kostgiæfelega ad hafa Giætur aa, og sierdeiles Prestarner vid þeirra Hws-Vitianer naakvæmlega ad spyria sig fyrer, hvörneñ Forelldrarner hegde sier hier i. Fiñest Forelldrarner hier i Forsoomunarsamer, og hafe ecke byriad ad laata þeirra Börn læra nockrar Bæner og þañ litla Catechismum fyrer þeirra 5ta 6ta, og 7da Alldurs Ar, betale i Fyrsta Siñe epter þeirra Formegan, og þvi þeir Tijunda, eñ meira og Tvöfallt, ef þeir fremur fiñast þar i Forsoomunarsamer, þo aa hier hiaa ad adgiæta Næme Barnsens og Krijngumstædur epter aalite Prestsens og Medhiaalparaña.

4. Uppaa þad ad saa beste Tijme sem Börneñ eiga ad læra nockud aa, til þeirra Upporvunar, Endurnæringar og Huggunar, aa i Voxt farande Arum og Alldre, skule ecke til forgiefens burt sooast, eiga þeir Forelldrar, sem eru læser, edur eitthvört þeirra Hiwa er læst, so sliott Börneñ eru 5. til 6. Ara gömul, laata þau taka til ad læra ad lesa aa Book. Forsoomest þad, höndlest vid þa Hyrdulausu epter Forordninguñe um̃ Hws-Vitianer, heñar 17. Articul.

5. A sierhvöriu Heimile, hvar nockur er læs, skal i hid allra miñsta Einu Siñe aa Deige, sierdeiles um̃ Vetur, lesast Eirn Capitule edur Tveir i Bibliuñe og þvi Nya-Testamente, nær þad er til, edur og ein Grein af añare Andrijkre Book, sem Prestureñ Raadleggur, hvar vid öllu Heimiles Foolkenu byriar ad vera naalægu med Andagt og Lotning. Forsoomest þad, advarest þeir af Prestenum og hañs Medhiaalp-

urum ; Eñ hiælpe þad ecke, þa bæte þeir Forsoomunarsömu, aan Mañgreinar Alits, 4. Mork. Skylldi eingeñ af þeim, sem eru aa Heimilenu, vera læs, skulu so marger, sem meiga vera ad heimañ, sækia til næsta Bæar, þaangad sem læst Foolk er; Sie eingeñ Bær so naalægur, hafe saa þa uñ Hond, sem hefur mesta Pecking, nockud sierhvorn Dag af þvi hañ kañ i Barna-Lærdoomenum, Psalmum, og þess Haattar fleira, hvar i hiaa Hws-Fodurnum byriar alldrei ad forsooma, ad Ransaka, hvad Borneñ og Pioonustu-Foolked hafa vardveitt sier til Uppbyggingar og Framfarar, af þvi sem framflutt hefur vered, hvad eingeñ skal veigra sier vid ad frañseigia med saaum og Einfolldum Ordum. Pad sama skal og skie, þaþau koma fraa Kyrkiuñe, hvoria Hwsbondeñ skal hallda siinu Heima-Foolke, Bornum og Hiwum til, Kostgiæfelega ad sækia, hvar yfer Presturen og Medhiaalpararner skulu hafa eitt vakande Auga.

6. Par ed i Islande fiñast þeir Bæer, sem eru so laangt burt-liggiande fraa Kyrkiuñe, ad Foolked gietur ecke, sierdeiles uñ harda Vetrar Daga og aa odrum Tijmum fyrer Saker stoorra Vatns-falla, sookt hana, so Kostgiæfelega, sem þvi añars byriade, þar med og so laangt liggiande fraa odrum Bæum, ad skiallldañ faa komest þaangad, þa skulu slijker Bæer hier epter, þa þeir verda lauser, fremur odrum, burt leigiast til þeirra, sem bæde eru Læser og Fullvedia. A medañ skulu Prestar og Hreppstioorar bera Umsorgun fyrer þvi, ad þa eingeñ er Læs aa þvilijkum Bæum, verde Eirn tekeñ til Pioonustu, sem bæde gietur lesed, og aasamt þvi vered hinum odrum til Uppbyggingar i þeirra Christendoome.

7. Sierhvor Hwsboonde skal Kostgiæfelega aaminña siin Born og Hiw, so vel ad uppbyria þeirra Erfide og Utriettingar med Bænum til GUDs, sem og i Erfidenu, stadfastlega siaalf ad upplypta þeirra Hiortum til hañs, sem er Bruñur og Uppspretta allrar Blessunar, og iñbyrdes ad tala siin aa mille uñ Gudrækelega og uppbyggelega Hlute, edur añad, þad sem Ærlegt er og Riett Christnum Mañe sæmelegt, hvar aa moot þau alvarlega eiga ad aamiñast under Straff, ad vakta sig fyrer Osæmelegu Tale og Gamne, Eydum og Bloote, Hiegoomlegum Historium, eda so kolludum Sogum, og Amors-Vijsum, eda Rijmum, sem Christnum soomer ecke uñ Hond ad hafa, og Heilagur Ande aangrast vid, A hvort jafnvel og so, Hiw og Born eiga, epter Skylldu þeirra Christeñdooms i Kiærleika ad aamiña hvort añad; So og eiga Foreldrar, Hws-Bændur og Mat-Mædur siaalf hier i ad gaanga aa undañ þeirra Bornum og Heimiles-Foolke med goodu og Christelegu Epterdæme, og ad taka sier Vara fyrer ollu þvi, sem kañ af sier ad giefa nockurt heimuglegt edur Openbert Hneixle. Eñ verde þeir añadhvort siaalfer fundner i aadur-tiedum Syndum og Lostum, samt odrum Otierlegheitum og Oguòlegleik, edur ad lijda siinu Foolke slijkt, aan þess ad giefa þad til kyña, þa aalijtest þeir med Gapastocknum epter undañgeingna Advorun, og gagne þad ecke, þa med hærra og hardara Straffe, sierdeiles med Kyrkiuñar Disciplin, epter Sakareñar Krijngumstædum.

8. Fremie Borneñ nockud Osæmelegt, þa eiga Forelldrarner ecke, epter hijngad

til-

til brwkanlegum Sidvana ad laata Of-myked epter þeim, helldur ſtraffa þau med alvarlegum Ordum (þo fyrer utañ Bloot og Oſæmeleg Jllyrde) ellegar og ſo med Hende og Vende, epter Aſigkomulage Yferſioonareñar, þo ſkulu oll Hofud-Hogg, og ad ſlaa i hoſtugre Reide, vera hier med alldunges fyrerbodeñ, lijka og ſaa Heimſkulege Vane, ſem hier og þar ſkal hafa vered, brwkanlegur i Landenu, ad hræda Born med JOLA-SVEJNUM, edur Vofum, alldeiles vera afſkaffadur. Mogle Borneñ, edur laate ſiaa aa ſier fwlt Reiduglegt Andlit, þa þeim er ſkipad nockud, eda þa þau eru Ogud, þa Tifteſt þau med þvi meire Alvorugiefne, þangad til þau læra ad ſijna ſig auſtwdleg og audmiwk. Til þeſs eiga Forelldrarner alltijd fraa Barns-Beine ad venia þeirra Born til Lotningar i Ordum, Vidmoote og Verkum vid ſig, þeirra Yferbodara og Elldra Foolk, og til Alvorugiefne og Kiærleika i Umgeingne vid hvorn Mañ. Ecke ſijdur ad þeigia i añara og Elldre Naalægd, þangad til aa þau er yrdt, ſo ſaa Otilhlijdelege Sidvane, ad Borneñ med Akiefd vilia raiſonnera edur aalyckta med, i ollum Hlutum, kuñe ad wtrijmaſt wr Giedsmunum þeirra Ungu, epter þvi þar af ad Sijduſtu uppvaxa einaſta Mootmæle, Foragt og Mootþrooe, hvar i hiaa, þo Bornunum maa leifaſt i Einu og Odru, ſem kañ ad vera Nytſamlegt og þiena til Betrunar ad ſpyria ſig fyrer med Lotningu. Hier næſt byriar Forelldrunum og, ad hallda þeirra Bornum til Hreinlætes og ſkickanlegrar Medferdar aa Fotum, Mat, og odru þvi, ſem þeim er feinged i Hendur ad eiga, og fara med. Med hvoriu ollu Preſtenum byriar ad hafa alvarlega Tilſioon.

9. So ſem Borneñ allt fraa Barns-Beine, eiga ad leidaſt til þeirrar Naudſynlegu Peckingar i þeirra Chriſteñdoome, ſañarlegs Guds-Otta, og añara Chriſtelegra Dygda og Sidgiædes; So byriar Forelldrunum og aa adra Sijdu ad venia þeirra Born i fraa Ungdoome vid Erfide, ſaa þeim fyrſt lijted ad giora, ſijdañ frekara ad framkvæma aa tilteknum Tijma, epter þvi ſem aukaſt Areñ og Kraptarner. Þeir ſkulu og vera forhuxader um, ad kieña þeim edur laata kieña, Eitt Ærlegt Hand-Verk, ſem i Landenu er brwkanlegt, hvar med þau i Framtijdeñe kuña ad viña ſier Fooſtur, og forſorga ſig Ærlega, eñ ecke ſem Tijdt og Opt ſkiedur, laata þau alaſt upp i Lete, Siaalfræde og odru vondu. Neyneſt þad ſijdarñ, og Forelldrarner epter Amiñing Preſtſens og Hreppſtiooraña viñe ecke Boot þar aa, þa ſkulu Hreppſtioorarner taka Borneñ fraa ſlijkum Forelldrum, þa þau eru 10. til 12. Ara gomul, og ſetia þau Eitt Ar edur leingur til eins Skickañlegs og Viñuſams Boonda i Sookneñe, ad hañ hallde þeim til ad læra Eitt Ærlegt Ervide; Eñ þad ſem aa medañ þarf til Upphelldes ſlijkra Barna, aa fyrer Tilſioon Hreppſtiooraña af Forelldrunum ad betalaſt, þa þeir eiga nockud til, eñ ſieu þeir Faatæker, þa takeſt þad af Faatækra Tijundum, Og Forelldrarner, ſem i þvilijkañ Maata audſijna ſig Ohlijduga, ſtraffeſt þar ad auke med Gapaſtocknum, Jaa lijka vel med odru þijngra Straffe epter þvi ſem þeirra Yferſioon er ſtoor til og Preſtſens aaſamt Syſlumañſens Sogn. Sierdeiles ſkulu Forelldrar og Hwsbændur Ongvanveigeñ lijda Bornunum edur Pioonuſtu-Foolke ad mootmæla, epter hijngad til verande Vidurſtyggelegum Vana, þa þeim er alvarlega vijſad til nockurs Ver-

ks, edur epter eigeñ Pootta ad uppbyria þad, edur og epter þeirra sialfra Hofde æ moote Yferbodarañæ Giedsmunum ad framkvæma nockurn Hlut, eñ þeir eiga ecke alleinasta ad hallda þeim til strax, ad hlijda því sem þeim er skipad, helldur og so ad giora Verked, sem þeim er fyrer sagt, ellegar þo þau kyñu ad siæ nockurt Verk mætte betur framkvæmast, þa med Greind ad miñast þar æ; Eñ fiñest þau Þverbroteñ, þa straffest þau epter Verdskulldan, og leifest þeim aungvanveigeñ ad giora nockud epter eigeñ Pootta og Siælfræde.

10. Þegar Bórneñ hafa framkvæmt sitt Verk, eiga Forelldrarner i Kiærleika ad undervijsa þeim hvad þeir hafe þar ad ad fiña, edur og ef þau hafa giört þad vel, læta þau vita ad þeim lijkar þad; Þo byriar þeim i því hinu sijdara ad varast ad tilleggia Bórnunum Otilbærelegt Lof, hvar af alleinasta iñrætest Hofmoodur og Sier-Pootte i Hiörtum þeirra Ungu; So hafa þeir og alvarlega ad vakta sig fyrer, Ofsiootlega ad afsaka þeirra Barna liootar Avyrdingar, og aungvañveigeñ lijda þeim ad slæst edur deila iñbyrdes: Ecke helldur mææ nockur Lijge edur Þioofnadur lijdast Ostraffad, helldur alvarlega ad setia þeim fyrer Siooner þa Synd, epter heñar Asigkomulage, og hvörsu hun strijder æ moote þeirra Skijrnar-Sættmæla, og reiter Gud til Reide, sömuleides ad þeir, sem af Gude eru tilsetter, ad yferbevijsa þeim slijkar Odygder, eiga hardlega ad straffa þær sömu.

11. Eingu Ungmeñe, sem elldra er eñ 10. Vetra, hvört helldur þad er Einmana edur fer um̃ med sijnum Forelldrum, skal lijdast ad fara um̃ i Sookneñe edur Sysluñe ad betla, æn þess þad sie vanfært edur einhvörium sierdeiles Krænkleika underorped. Helldur skulu Hreppstioorarner i þeirre Sookn, hvar Forelldrarner eiga heima, med Ræde Syslumañs, þa eingeñ öñur Urræde eru, setia soddañ Born nidur hiæ Einum eda Tveimur Velmeigande Bændum i Sookneñe, Eitt Ar eda leingur, þar til þau gieta uñed sier siælfum Braud, og þañ Tijd fæ Undervijsan i Guds Otta og skickanlegu Erfide, Landenu til Nytsemdar, fyrer hvörn Velgiörning ad þau Born, sem so uppalast æ Ölmusu og añara Goodgiordum, meiga eige, þa er þau Mañast, vista sig i burtu wr þeirre Sveit, so leinge sem þau kuña ad fæ þar forsvaranlega Þioonustu.

12, Eckert Barn mææ Vist-Ræda sig i Fyrsta Siñe hiæ ödrum, æn siña Forelldra, Forsvars-Maña edur næstu Nææunga Vilia og Samþickes, nema so sie, ad Hreppstioorar siæe þad Forelldrarner giete vered þess æn, og þad sie Barnenu til Skada, ef þad skal vera hiæ þeim; Sie hier æ moote giort, skulu þau Vistar-Ræd agtast eins og Ogiord være: Skule þad og reynast, ad nockur hafe twlkad Barn fræ Forelldrum sijnum, og þad verdur honum yferbevijsad, þa bæte hañ þar fyrer svo miklu, sem gollded er i eins Ars Kaup þeim er kallast Medalmadur; Hafe þar æ moote Fader edur Mooder mörg Born, skulu þau vera skylldug til, þa 3. af þeim eru komeñ til Logalldurs, ad læta epter eitt af þeim i Þionustu, epter Hreppstioora Tilsögn, hvört ad og so skal vera ad skilia um̃ Hiw öñur sem uppvaxa epter Hendeñe, og þad er bevijsanlegt, ad þau giete vered þeirra æn; Setie Forelldrarner sig hier i moote, og vilie ei læta sijn Born reyna sig, hiæ ödru skickanlegu Foolke, þa Mulcterest þeir epter því sem sañproofast.

13. Ef Forelldrarner, epter Guds Vilia kuña ad koma i so aumt Tilstand, ad þeir giete ecke nært og forsorgad sialfa sig, edur þurfe Pioonustu-Foolks vid, og þeir eiga Børn, sem eru komeñ til Log-Alldurs, og añad hvørt viña hiaa ødrum edur hallda Bw, þa skulu þau Børn, so sem þad þar fyrer utañ er þeirra Skillda, af fremsta Megne stoda Forelldrana med aarlegu Tillage til þeirra Upphelldes, og ad þeir giete hallded eirn sier til þioonustu og gollded hønum. So skal og eitt Barnaña, sem Ogipt er, og viñur hiaa ødrum, vera skilldugt til, þa Forelldrarner oska þess, aptur epter Løgmæta Uppsøgn ad fara i Vist hia þeim, audsyna þeim allañ skilldugañ Trwskap, Adstod og Hlijdne, og vera aanægt med þad sem Forelldrarner gieta giefed þessum þeirra Børnum til Upphelldes. Sieu Forelldrarner til Hwsa hia einu siña Barna, sem er gift, og þeir hafa feinged allt i Hendur, þa byriar þvi ad breita vid sijna Forelldra af allre Elsku og Virdingu, og a eingañ Haatt ad leggia Vanrækt vid þa, epter þeirre Fyrerskrift sem Guds heilaga Ord giefur, hvert fyrer þeim a af þeirra Kieñendum kostgiæfelega ad brijnast.

14. Foraate Børn edur Hiw þeirra Forelldra edur Yferbodara Christelegar Amiñingar, og skeite ecke um̃ þeirra Typtan, helldur hallde aafram̃ i Lete og Pvermodsku allt til þeirra Alldurs 16. Ars, skulu Hreppstioorar klaga þau fyrer Syslumañe, sem epter Sakareñar Løglegu Ransake og Bevijsingum skal dæma þau i Gapastockeñ, og þar ofañ aa skicka þeim i Pioonustu hiaa einum velmeigande og skickanlegum Bonda i Sookneñe; Betre þaug sig eñ þa ecke, i þad leingsta iñañ þau hafa Fim̃ um̃ Tvitugt, skulu þau, sem Landeydarar, dæmast i Tugt-Hwsed i Kaupeñhafn, og þar ad auke missa Arf epter sijna Forelldra, hvør falla skal til næstu Erfingia.

15. Hvør sem vill vera LAUSAMADUR, ad HEILU edur HALFU, hañ skal eiga i þad minsta 10. HUNDRUD Tijundar verd, hvar af hañ betalar Skatt og Skylldur epter Løgum, og eingre Yfervallds-Persoonu skal vera leifelegt hier epter, hvørke fyrer Bæn edur Gaafur, ad laata vera nockurn Lausa-Mañ, sem miña aa til, ef hañ ecke þar fyrer vill aalijtast, sem vorra Mandaters Yfertrodare.

16. Allañ sama Rett, sem Forelldrarner, epter fyrrsøgdu hafa til ad straffa og aamiña sijn Børn fyrer þeirra Yfersiooner, skulu lijka Huus-Bændur og Huus-Mædur hafa yfer þeirra Pioonustu Foolke, þa þad missier sig aa moote þeim.

17. Pioonustu-Foolke byriar af fremsta Megne og med allre Trigd og Hollustu ad aastunda þeirra Hws-Bænda og Mat-Mædra Gagn og Besta, og audsijna sig hlijded og audmiukt vid þau og þeirra Skipaner. Syne sig nockur Ovilingañ leideñlegañ og þverbroteñ vegna þess sem hønum er skipad, bæte hvør epter þvi sem Yfersiooneñ finst ad vera stoor til.

18. Slaae nockur siñ Huus-Boonda, Mat-Moodur, eda Yferbodara, hvørt helldur þad skedur a þeirra eigeñ Heimile edur añarstadar, þa betale sa sem hier i er sekur, auk þess sem Løgeñ þar uñ Dictera og aakveda, Halft Ars Kaup, halft til Fataækra Barna, og halfparteñ til þess hañ sloo, og Straffest þar ad auk med Gapastocknum.

19. Forsiaae þioonustu-Foolk sig med Bloote og Eidum og ødrum skañarlegum

Ordum

Ordum eda Verkum, hvar að adrer, þo sierdeiles Ungdoomur og Born kuña ad hneixlast, og veniast til marghættads Ogudlegleika, þa setiest þad þar fyrer alvarlega til rietta af Hws-Bondanum; Vilie þad eckert gagna, giefest Prestenum til Vitundar til ad uppvekia þeirra Samvitskur, og epter æsigkomulage ad iñehallda nockru af þeirra Erfides-Launum hinum Fatækutil Gooda. Gagne þad eñ þa ecke, skulu þeir standa Opeñbera Aflausn so ad Hneixled verde burttekeð wr Landenu.

20. Striwke nockur æn Skiallegrar Orsakar wr siñe Vist, hefur Hws-Bondeñ strax ad giefa þad Hreppstioorum til Vitundar, hvorier æn Undañdrættar eiga ad æskiæra hañ og uppleita, ad hañ sem eirn Lausgængare kuñe ad verda strassadur.

21. Allañ þañ Skada þioonustu-Foolk giorer þeirra Hws-Bændum med Odigd edur Lete skal þad ad fullu borga, þa Hws-Bondeñ alvarlega Oskar þess: Vere þad optar til og Skadeñ verde til EJNS RJKJSDALS, þa setiest þad þar ad auke i Gapastockeñ fræ 4. til 6. Tijma. Siææ nockur Hws-Bonde i giegnum Fijngur vid Pioonustu-Foolksens mootþrooanlega Vondsku, añadhvort Jñañ edur Utañ Bæar audsynda, edur maske take þad i Forsvar, bæte epter Sakareñar Asigkomulage.

22. Eingum af Pioonustu-Foolkenu skal leifast ad fara til añars Bæar æn sijns Hws-Boonda Vitundar og Ordlofs, ecke helldur skal þvi epterlætast epter eigeñ Potta og til þess sialfs Gagnsmuna ad erfida, fyrer sig sialft, ad Hws-Bondans Verk þess vegna tefiest og forsoomest, þar ad Hws-Bondeñ sialfur, þa þad er hañs Hentugleike, añ þvi vel Tijma til, ad wtrietta þess eiged.

23. Hws-Bændurner skulu hallda þeirra Pioonustu Foolk forsvaranlega til Fædes og Fatnadar epter þeirra Efnum, og Landsins Sidvana, vera þvi til Hialpar og særelegrar Pioonustu i uppafallande Siwkdoome, og giefa þvi Stunder til ad ydka sig i þess Christeñdoome, somuleides ad hallda hreinum og vid Magt þeirra Fatnade. Þeir skulu gialda þvi þess Laun i riettañ Tijma, ecke Of-þijngia þvi med allt of-þwngu Erfide og Otilbærelegum Vokum. So og skulu þeir uña þvi Tijma til ad vijxla þess Launum sier til naudsynlegrar Nytsemdar, sierdeiles þa i Frijdu er gollded. Fiñest hier i nockur Brestur a Hws-Bondans Sijdu, þa kañ Pionustu-Foolked ad bidia med goodum Ordum um Lagfæring þar æ, hiælpe þad ecke, þa er þvi leift ad giefa þad til Vitundar Hreppstioorunum, sem skulu æmiña Hws-Bondañ, og þa þad ecke gagnar, giefa Sokena Syslumañe til Vitundar, hver ed strax skal giora Hiwunum Riett, og setia þañ ræangsnwna og Omiskunsama Hws-Bonda i Sekter.

24. Hws-Bændurner skulu ecke yfersalla þeirra Hiw med Formælingar ellegar bligdunarlausum Erukreinkingar Skiends Ordum, ecke helldur skulu þeir straffa þau med soddañ Verkfærum, sem þau kañ skada uppæ þeirra Heilsu, edur særa edur Limlesta þau. Verde þad, straffest þeir, so sem þeir hefdu sleiged edur skendsad eirn Framande.

25. Utrekur nockur Hws-Bonde sijn Hiw, æn Orsakar wr þeirra Pioonustu, fyrr eñ þeirra Skildage er komeñ, betale hañ þeim halfs Ars Fæde og Laun, og straffest þar ad auke epter sem bevijsast, utañ Hiwed hafe vered so Yverbroted og Ovidrædanlegt, ad þad hafe ecke viliad taka epter Hwsbondans Amiñingum og Skipan; Þo skal Hwsbondeñ

eñ adur eñ hañ þañeñ burtrekur ſlijkt Viñu-Hiw, kiæra þad fyrer ſijnum Sooknar-Preſte og Hreppſtioorum, ad þeir fyrer Chriſtelega Utmælan og Hootaner ſære leitaſt vid ad koma þvi til Vidurkieñingar og Endurbootar; Hiælpe þad ecke, og þau verde þar fyrer burtrekeñ, ælijteſt þau, ſem Mootþrooanleger Lausgangarar.

26. Hvor eirn, hvert hañ er Ungur eda Gamall, ſem er i Viſt, ſkal, þa hañ ætlar ad fara wr þeirre ſømu, Oſka Vitnisburdar af ſijnum Hwsbonda um ſitt Dagfar og Breitne, þañ Tijma hañ hefur hiaa honum vered, og ber eingum Hwsbonda, under 2. Marka Danſkra Sekt, ad neita honum þeim Vitnesburde, ecke helldur wtgiefa hañ ødruvijſe eñ Hiwed hefur forþienad; Þo þarf þeſſe Vitnesburdur ecke ad ſkrifaſt, þegar Þiooneñ fer til Viſtar i ſømu Sookn, helldur alleinaſta giefaſt Muñlega i Preſtſens Vidurviſt þeim Hwsbonda, ſem þad ætlar til. Eñ ef Hiwed fer til Viſtar i adra Sookn, ſkal þeſſe ſkriflegur Vitnesburdur æn Betalings giefaſt, hvorn Preſtureñ og ſo med ſiñe Uppæſkript epter hañs Vitnid ſkal Stadfeſta. Fyrer utañ ſlijkañ Vitnesburd, maa eingeñ taka nockurt Hiw i ſijna Þioonuſtu, nema þad verde Bevijſlegt giort, ad hañs hafe Oſkad vered, og ecke feingeſt, og ſkal þa Preſtſens og Tveggia Hreppſtioora Vitnesburdur takaſt eins gilldur.

27. Þar ed Folk Sumſtadar ſkal hafa þañ Vana, ad epterſpyria og frietta Framande, og ſierdeiles Reiſande Ferda-Folk, hvørs vegna mørg Oſañinde uppdiktaſt og æ ſtundum vijda wtberaſt, þa ſkulu Preſtarner Opeñberlega og wtþrickelega advara þad ad vakta ſig fyrer ſlijku; Og ſo framarlega nockur ſem Upphafs-Madur ſiñſt i moot Sañleikanum ad hafa frambored ſoddañ uppdiktad Þvættings Sladur, ſkal þañ fyrer utañ Peninga Mulct, ſtraffaſt med Gapaſtocknum, epter Sakareñar Aſigkomulage.

28. Til ad koma i Veigeñ fyrer adſkilianlegt Reglulenyſe med Bloot og Bañ og añ añ Otierlegleika, ſem þar ſkal æfaſt a medal þeirra, er uppehallda ſig vid Sioo-Sijduna, edur i Veſt Maña-Eyum til ad fiſka, med þvi ad ſumer af Fiſkurunum og ødrum, ſem eru æ og hiaa Fiſke-Skipum og Baatum, ſkulu, nær þau ſetiaſt fram og upp, ſo og lijka nær þeir eru a Sioonum, bloota ſo vel añara, ſm ſijnum eigeñ Veidarfærum, þrætaſt æ, kijfa, ſlaaſt, og i añañ Maata ſijna ſig Oſtioornanlega og Ogudlega; So vilium Vier, til ad affkaffa ſlijkt Oſkick og Ogudlegt Hættalag, hier med Allra-Nadugaſt ha ſa befalad, ad aller Formeñ fyrer Fiſke-Skipum og Baatum, ſkulu hafa nakvæma Til ſioon med Folkenu og Haaſetunum, og æmiña þa, ad þeir vakte ſig fyrer ſlijkre Synd og Vondſku; Agte þeir þad ecke, þa kvarte Formeñerner um þad fyrer Preſtenum, hvør ed Alvarlega ſkal ſetia þa þar fyrer til rietta. Eñ hiælpe þad eñ þa ecke, þa ſkal þad giefaſt til Kyña Syſlumañenum, hvør ed dæme þa Sekt i Mulct, epter Yferſioonareñar Aſigkomulage, og þeir ſtande þar fyrer utañ Opeñberar Skrifter; Forſiære ſiælfer Formeñ erner ſig, þa angiefeſt þad af Tveimur beſtu og ſkilrijkuſtu Moñum a hvøriu Skipe, hvør ier æ ſamt Formañenum ſkulu alltijd hafa Tilſion med Folkenu, og aſamt þeim giefa til

Kyña þad edur er umtalad. Forsoome nockur For-edur Tilsioonar-Madur sijna Skylldu hier i, setiest hañ i Mulct þar fyrer.

29. Formeñ og Tilsioonar-Meñ skulu somuleides, bæde um̃ Vertijd og utañ Vertijdar bera Um̃sorgun fyrer þvi, ad Skip og Baatar sieu so Tijmanlega sett undañ Sioo Kvolldenu fyrer Suñu-og Helge-Daga, ad Sioo-Foolk og Hæsetar hafe noogañ Tijma ad giora til gooda þeim Hlut Aflans, sem þeim vidkiemur; Forsoomest þad an Naudsynia, svare Formeñerner til þess Skada, sem Foolked hlijtur þar af.

30. So skulu þeir þañ Tijma sem ei giefur ad rooa, ecke lijda þeim ad eyda Tijmanum Onytsamlega med Omensku, helldur Kostgiæfelega sia epter, ad þeir a medañ so vel sem mogulegt er, verke Fisk siña Hwsbænda og þar hia Daglega hallda þeim til Bæna og GUds Orda Heirnar i þeim Hwsum þar þeir eru til Pioonustu; Forsoome nockur Erfide sijns Hwsbonda, þa straffest hañ þar fyrer so sem fyrer Otrwskap.

31. Skule nockur fiñast vid Utroodur edur Añarstadar ad hafa brwkad so kalladar RUNER og RISTINGAR, eda adra O-Christelega Hia-Trw, edur hroosa sier þar af, þa setiest hañ til rietta þar fyrer af Prestenum, hvor af Guds Orde skal yferbevijsa honum Andstygd þeirrar Syndar, og vilie hañ eñ þa ecke lata af heñe, þa skal hañ aklijtast þar fyrer med Kyrkiuñar Disciplin odrum eins Siñudum til Epterdæmes.

32. Hvar Bændurner i eirne Sookn reiknast fremur odrum ad vera Purfande, og hafa Skort a Lijfs Næringu og Uppheld fyrer sig og sijna, þar skulu Hreppstioorarner a Voreñ, og Hausteñ, og so opt sem þeir kuña ad hafa Hentugleika til, Nakvæmlega rañsaka, hvort þad ecke Ordsakast af Hwsboondans edur Hiwaña Lete og Hyrduleise, añadhvort vid Utroodur, Slatt, edur añad, fiñest þad, skulu þeir amiña þa Seku, ad betra sig og leita þeirra Næringar i Guds Otta og med stærre Astundan. Peir skulu og so vera þeim Fatæku, sem eckert hafa ad viña a Veturnar, Hiaalpleger, ad þeir añadhvort fyrer Erfide edur billegañ Betaling giete feinged Ull, Lijse og añad Naudsynlegt hia betur meigande Bændum. Vilie slijker Fatæker Bændur og þeirra Konur ecke Goodviliuglega hlijda Hreppstiooraña Amiñingum, og ecke helldur framvijsa þeim þeirra Erfide og þad þeir hafa fyrer sig ad leggia, þa þeir eru komner til ad ransaka þad, skulu Hreppstioorarner hafa Valld til ad opna þeirra Hws og Hyrdslur an Akiæru, og þeir Seku straffest fyrer þeirra Priooosku, sa Fatæke med Gapa-Stocknum, eñ þeir sem meire Efne hafa, gialldi i hvort Siñ þeir Forakta, og Mootviliuglega forsma Hreppstiooraña Loglegar Befalningar, Halfa Mork edur Rixdal.

33. Nær nockur Iñlendur edur Framande, sem añadhvort er sendur i vorra eigeñ Allra-Hædstu Erende, edur ætlar ad reisa Bw i Islande, skyllde hafa Porf a Viñu-Foolke, þa skulu Hreppstioorarner edur Syslumadureñ, þa þeim er þad til Vitundar giefed, skaffa þeim an Dvalar, Duganleg, Trigg og Skilrijk Viñuhiw, til hvorra þeir

ail-

alltijd kuñe ad svara, sierdeiles uppaa þad ad þeir Framande bageſt ei þar af. Fiñeſt i þeſſu Forſoomun, þa giefeſt til Vitundar Amtmañe, hvor ed Vidkomendum ſkal tilbærelegt Straff uppaa leggia.

34. Aungvum ma leyfaſt ad betla, nema þa hañ, ſaker Alldurdooms, Veikleika, Burdaleyſes og añars þeckianlegs Vanmaattar gietur ecke ſiaalfur forþienad ſitt Braud; So og ſkulu þeſſhaattar ecke fara ur einum Hrepp i añañ, miklu ſijdur wr Syſlunie, þa hañ ecke hefur Hreppſtioraña edur Syſlumañſens Atteſt, ad hñ ſie ſoddañ ein faatæk vanfær og naudſtodd Mañeſkia, ſem aadur er ſagt, hvad i Atteſted-a ad iñfæraſt, uppa þad ad þeir, hvorium Gud hefur Formegan gefed, ad meddeila odrum nockru, kuñe þvi helldur ad uppvekiaſt og þeckia ſijna Skylldu ad hiaalpa þeirra naudſtoddum Naunga, hvor ſem forſoomar ad taka ſlijk Atteſt, honum ſkal fraaviſaſt til baka af Hreppſtioorunum til þeirrar Sooknar ſem hañ er komeñ fra, og þar fyrer utañ ecke a nockrum Feriuſtad yfer um flitiaſt til ad betla fremur aan Atteſts. Kome hañ añad ſiñ Atteſtslaus, ſkal hañ aalijtaſt og ſtraffaſt ſem eirn Landhlaupare. Slijk Atteſt eiga ad wtgiefaſt epter beſtu Þeckingu og Samvitſku, eñ ecke fyrer Villdar og Vinſkaps Saker, miklu ſijdur Giafar, under hardt Straff, ſem af Amtmañenum fyrerſeigeſt, og ſkulu ſlijk Atteſt, ecke gyllda leingur eñ haalft Ar; Þo ſkal þar hia athugaſt, ef Gud villde heimſækia Landed edur eina Sookn fremur añare med Hardendum edur nockrum ſierdeiles Skada, hvort Foolk þa hafe haft Tækefære, ad bidia um og fa ſoddañ eitt Atteſt.

35. Uppa þad ad allt framanſkrifad kuñe ad verda hid nakvæmlegaſta til vara teked, og Landed fyrer ſo miog naudſynlega Tilſkipan og ſkilrijkra Maña Umſioon niote þeſs tilætlada Avaxtar og Nytſemdar, þa ſkulu til Hreppſtioora hier epter wtveliaſt þeir Gudhræddustu, Duganleguſtu og forſtandiguſtu Bændur i Sookneñe, hvorier i ollum ærlegum Samkvæmum, ſo vel ſem Medhialpararner ſkulu metaſt og virdaſt framar odrum Bændum i Sookneñe. Þeir ſkulu og til Lietters og Launa fyrer þeirra Erfide niota þridiungs af ollum þeim Bootum, ſem epter þeſſare vorre Allranaadiguſtu Forordningu fyrerſegiaſt og befalaſt, eñ þar a moote ſkulu þeir Skylldugerr ad giora Preſtenum og hañ aptur Proofaſtenum, good Skil og Rigtugheit fyrer hinum tveimur þridiu Þartunum, ad þad ſama med Preſtſens og hañs Medhiaalpara Raade, til þeirra Fatækuſtu Barna undervijſunar og naudſynlegs Uppheldes i ſierhvorre Sookn, hvar til vier þeim Allranaadugaſt vilium hafa ſkeinkt og til-lagt, forſvaranlega kuñe viplaſt. Og ſo ſem Hreppſtioorarner eru Syſlumañaña Medhiaalparar i þvi ad ſiaa epter Sooknareñar Beſta, ſo ſkulu og Syſlumeñerner vera ſkylldugerr ad hiaalpa þem med Raad og Daad i þeirra Embættes Utriettingum, ſo ſem þeir ætla þad fyrer oſs Allraunderdanigaſt ad For-og til-ſvara.

Þvi bioodum Vier og hier med beſolum Vorum Stift-Amt Mañe, Biſkupum, Ammañe, Logmoñum, Syſlumoñum og odrum, ſem þeſſe Vor Forordning verde

ur tilsend, ad þeir hána a tilhlijdelegum Stødum til allra Epterriettingar strax læte lesa og kuñgiora; Lijka sem Vier og Allra-Nadugast vilium ad hun hier epter Einusiñe a Are i sierhvorium, So vel Under sem Yfer-Rette, skule fyrer Almwganum upplesast og auglijsast.

Giefed a HIRSCHHOLMS Slote þañ 3. Junii Anno 1746.

Under Vorre Kongligre Hende og Signete.

# Christian R.

(LS)

Epter Allra-Nadugastre Sickan til mijn underskrifads, Dateradre a HIRSCHHOLMS Slote, þañ 3. Junii 1746. Er þesse Allra-Nadugasta Tilskipan uñ Hws-Agañ a Islande þañig sem hier siest, wtløgd a Islendsku, epter þvi Danska Exemplare, og lateñ wtganga a Prent.

Test. Stada-Stad þañ 6. Augusti Anno 1746.

HALLDOR BRINIOLFS-SON.